

## á Sumardag fyrsta (Skírdag) 1859.

eptir

prestinn **B. Halldórsson.**

---

Með uppruna þessa hins háleita innsetningardags kveldmáltíðarinnar hefir þèr nú, ó guð, þóknast að gefa oss umskipti veturs og sumars. Hin síðasta vetrasólin er runnin til viðar með kveðju endurminningarinnar frá hinum liðna tíma, og hin fyrsta sumarsólin er stígin á lopt með kveðju vonarinnar frá þeim tímanum, er nú fer í hönd. Endurminningin snýr sèr til þín, þú eilífi höfundur árstíðanna; því þú ert sá sem gefur oss vetur og sumar, þú ert sá sem sendir oss kuldann og snjóinn, hitann og döggina eptir þinni velþóknun. Vèr minnumst hinna ströngu,

þungbæru daga, sem þú hefir látið yfir oss líða á lyktuðum vetri; en ekki til þess að mögla við þig, sem einn átt ráð á að gjöra allt er þú villt, og ekki til þess að vanþakka þèr, sem ætíð gjörir betur við oss heldur enn vèr vinnum til. Nei, vèr minnumst þeirra einmitt til að þakka þèr fyrir þá af auðmjúku hjarta, til að þakka þèr fyrir það að þeir eru nú afstaðnir með öllum þeirra þrautum, og vèr hingað komnir fyrir krapt þinnar miskunsemi. Vèr minnumst vetrarins til að þakka þèr fyrir allt hið góða, sem þú veittir oss á honum, fyrir það að þú viðhèlzt lífi voru og lífsbjörg, heilbrigði vorri og kröptum, fyrir það að þú varðveittir oss frá svo mörgum skaða og háskasemdum, fyrir það að þú fylgdir oss með þínu orði og anda, fyrir það að þú enn þá gafst oss dýrmætar náðarstundir, gafst oss frest til að snúa oss og bæta ráð vort, gafst oss óteljandi uppörfanir til að leita þín og frelsa sálir vorar. Já, vèr minnumst sèr í lagi bar-

áttu vorrar og erfiðleika á um liðnum vetri, til að þakka þèr jafnframt fyrir það, að þú með ýmsu móti, með ýmislegum missi og mæðu reynir og agar oss börnin þín, svo vèr í gegnum hörmungarnar getum, eins og oss byrjar, inngengið í þitt ríki. Þú hefir nú að undanförnu látið hvern daginn eptir annan minna oss á það hve kalt og stríðsamt er í þessum heimi, hve óvíst er að ætla á björg og nægtir þessarar jarðar; og sannarlega hefir þú einnig með því haft þann tilgang, að benda oss úr útivist tímans til hinna sælu heimkynna þinna, að vekja hjá oss, ekki að eins löngun eptir jarðnesku sumri, heldur og líka löngun eptir því sumri fyrirheitisins, sem þínir trúuðu óaflátanlega eptir bíða, þangað til þeir verða leystir úr þessum hretviðrasama eymdardal. Víst er það ekki þèr að kenna ó drottinn, heldur oss sjálfum, ef ávöxtur handleiðslu þinnar hefir orðið allur annar hjá oss heldur enn þessi, ef vèr að eins með því meiri hugsýki höf-

um fest augu vor við þessa jörð og það sem vèr á henni reiknum hlutskipti vort, ef vèr í stað þess að upphefja höfuð vor, sem þeir er í sèrhverri þrenging vita það að endurlausn þeirra tekur að nálgast, höfum verið hreldir og hugsjúkir, eins og þeir sem enga von hafa. Ó faðir, fyrirgef oss, þínum breisku börnum alla fastheldni vora við hin fallvöltu gæði þessa heims, allan vorn óþarfa kvíða, þegar vèr höldum þau verði frá oss tekin, allan vorn ótilhlýðilega söknuð, þegar vèr erum búnir að missa þau. Fyrirgef oss hina miklu synd óánægju vorrar og vanþakklætis, þegar dagarnir eru öðruvísi enn vèr óskum oss; fyrirgef oss hina miklu synd óþolinmæði vorrar, þegar hönd þín leiðir oss örðuga vegu um dimma dali. Fyrirgef oss hina miklu synd vantrúar vorrar, að vèr ekki ætíð skulum framganga með öruggu trausti til þinnar alvísu umhyggju, fagnandi af þinni föðurelsku, óhultir í þínum föðurfaðmi. Ó, skapaðu nú í oss með nýu

sumri nýtt hjarta, þó vèr á yfirbragði hinnar sýnilegu náttúru enn ekki sjáum þau umskipti, sem vèr þráum svo sárt eptir, þó himininn yfir þessu voru kalda bygðarlagi enn í dag apturhaldi fyrir oss blíðu sinni, þá gef að vèr samt sjáum þitt náðar auglit yfir oss skína, þinn náðar himin yfir oss uppljúkast. Láttu með nýrri árstíð nýja von og nýtt trúartraust upp renna í sálum vorum, þá von og það trúartraust, sem þreyir í þolinmæði jafnvel þó þèr enn skyldi þóknast að undandraga hjálpina nokkra stund, og fylla meir á barma mæli þeirrar reynslu, sem mörgum er farin að finnast orðin sèr um megn. Þú veizt eptirlangan hjartna vorra ó drottinn; vorar leynilegu andvarpanir eru, allt eins og vorar hljóðbæru óskir, ekki huldar fyrir þèr. Þú veizt hve fegnir vèr nú vildum meiga losast úr ánauðarböndum hardindanna. Þú heyrir gjörla alla þá kveinstafi fjær og nær, sem hin almenna neyð vekur og sendir upp að þín-

um veldisstóli. Þú sèr þörf hins hungraða, sem mænir eptir endurnærandi fæðu, og vandræði hins snauða sem ekki getur varðveitt það er hann átti að hafa sèr til lífs uppeldis. Þetta er þèr allt kunnugt, og vèr vitum fyrir víst, að þu fúslega tekur á móti ákalli voru þegar vèr biðjum þig miskunar og ásjár, hjálpar og hlífðar, þegar vèr biðjum þig eins og þinn sonur bað: „Ó faðir ef það er mögulegt, þá tak í burt frá oss þennan kaleik!“ En engan ákafa eður óstilling viljum vèr láta koma nærri þessari heilögu bæn; vèr viljum ekki gleyma því að tengja við hana þau auðmýktarorð: „Þó ekki vor heldur verði þinn vilji.“ Vèr könnumst við skammsýni vora og veikleika, hvað vèr sjálfir sjáum stutt framm í veginn, og svo optsinnis viljum hrinda oss af herðum þeirri byrði, sem vèr eptir á sjáum að oss var hollast að bera. Vèr þekkjum bráðlæti vort að vèr einatt erum eins og börnin, sem ekki þola sèr við að bíða eptir þeim gæð-

um, er þau girnast og gjöra sèr von um hjá föður þeirra. En faðirinn veit betur hinn hentuga tíma, og eptir honum verða börnin að bíða með hógværð og lítilæti. Já, þú eilífi faðir alls faðernis, faðir allra hinna fátæku og hrelldu, faðir allra nauðstaddra þurfamanna, þú hefir sett sèrhverja reynslustund og sèrhverja frelsisstund í sjálfs þíns vald. Það kemur oss líka bezt; því þú sèr upphaf og endalykt þeirrar götu er vèr ganga skulum. Þú einn þekkir það ljósast til hvers þú ætlar oss, og með hverjum hætti vèr helzt getum orðið leiddir að hinu fyrirhugaða takmarki. Verði því ekki vor heldur þinn vilji! Þinn vilji verði á oss og í oss, á kjörum vorum og í hjörtum vorum! Þinn algóði og almáttugi, þinn rèttláti og heilagi vilji sè oss ætíð kærari heldur enn blíðar árstíðir og góðir dagar!

Vilji þinn guð sè vor
við sèrhvert æfispor;
Hvorki hèrvistar blíða,
Nè hörmung tímans stríða

Nái oss neitt að skilja
Við náðar þinnar vilja!
Vilji þinn verði sá,
Vor guð oss mönnum hjá,
Að vèr öruggir stríðum
Og í trúnni' á þig bíðum
Unz þú, ó faðir, hefur
Oss reynt og sigur gefur.
Svo veri sumarið,
Sem nú er upp runnið,
Falið á vald þíns vilja,
Veit oss hann elska' og skilja
Og honum treysta og hlýða
Hvers sem vèr skulum bíða.
Allt, sem þú vilt, það er
Oss fyrir beztu hèr;
Allt fær það góðan endi,
Ef þinni föðurhendi,
Höldum, heim meðan keppum,
Og henni aldrei sleppum.
Amen, í Jesú nafni, amen.

---

Prentuð á Akureyri 1859, hjá H. Helgasyni.

